Wikipedia

# Baskneska

**Baskneska** (baskneska: ***Euskara***) er tungumál sem talað er í Baskalandi. Baskaland er svæði á Norður-Spáni og Suðvestur-Frakklandi. Baskar eru að reyna að verða sjálfstætt ríki en þeir hafa ekki hlotið sjálfstæði frá Spáni og Frakklandi. Menning Baska er frábrugðin menningu Frakka og Spánverja. Til dæmis er baskneska tungumálið eitt sinnar tegundar og líkist hvorki spænsku, frönsku né öðrum rómönskum tungumálum. Baskneska tungumálið tilheyrir ekki neinni tungumálaætt og er því hvorki rómanskt né indóevrópskt eins og flest tungumál sem töluð eru nálægt Baskalandi. Elstu textar er frá 1500. Mállýskur eru 8 og innihalda mörg tökuorð úr nálægum málum eins og spænsku, frönsku, latínu.

| **Baskneska**<br>***Euskara*** | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Baskaland (sem er í Spánni og Frakklandi) |
| **Heimshluti** | Suðvestur Evrópa |
| **Fjöldi málhafa** | 1.033.900 |
| **Ætt** | Einangrað |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Baskaland |
| **Stýrt af** | Euskaltzaindia |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | eu |
| **ISO 639-2** | baq |
| **SIL** | BAQ |
| **ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode. | |



## Nokkrar setningar og orð

- **Bai** = Já
- **Ez** = Nei
- **Kaixo!** = Halló!
- **Agur!** = Bless
- **Ikusi arte** = Við sjáumst!
- **Eskerrik asko!** = Takk
- **Egun on** = Góðan dag(inn)
- **Arratsalde on** = Gott kvöld
- **Gabon** = Góða nótt
- **Mesedez** = Gjörðu svo vel
- **Barkatu** = Afsakið, fyrirgefðu
- **Zer Moduz** = Hvað segirðu?
- **Zorionak** = til hamingju
- **Zu** = þú
- **Ilargia** = tungl
- **Argia** = ljós
- **Neska** = stelpa
- **Mutil** = strákur
- **Oso ondo** = mjög gott/vel

## Tenglar

- Útvarp á Basknesku (http://www.eitb.com/euskara/)
- Vísindavefurinn: Hvaðan kemur baskneska? (http://www.visindavefur.is/svar.php?id=6338)

